J annann maata, eigum vier ad giora Goodverkenn vegna Sialfra vorra.

Fyrst, so ad vier þar med auglysum fyrer Mønnunum, ad vier sieum Trwader.

Þar næst, ad vier prydum med þeim vort lijferne, Stiett og kallan.

J þridin Grein, ad vier sieum þess vissare umm vora Utvalning og Saaluhiaalp.

Fiorda Orsoken er þesse, ad vier med þadslag odlustum hia Gude, giefins veitt laun, tijmanleg og eilijf.

J þridia maata, eigum vier ad giora Goodverkenn vegna Naungans.

Fyrst, so vier komum honum

um til hialpar i hans aliggiande Naudsynium.

Þar næst, so hañ med voru Epterdæme, verde upphvattur til goodra verka.

J þridiu Grein, so ad hann hveirlest ecke, eda breite epter oss i illu. Ad siidustu, so ad vier nidurþoggum og tilstoppum munna þeirra, sem oss lasta, ef skie mætte þeir kynne so fyrer GUds Hialp ad leidriettast.

Hvad utheimtest til þess, ad eitt Verk meige reiknast gott og Gude þægelegt?

Fyrst, ad þad sie af Gude boded i hans heilaga Orde.

Þar næst, ad þad gioerest af Trwudum Manne, fyrer innblastur Heilags Anda, i godre Meiningu.

Hvornenn kunna vor Goodverk Gude ad þocknast, þar þau eru ofull-
komenn og saurug?

Þad kiemur fyrst til af þvi, ad vier fyrer Trwna erum inn-
plantader Christo, hvor ed hylur alla vora breste, med sijnu full-
komna Riettlæte.

Þar næst, ad vier erum fyrer hans Pijnu og Medalgongu, for-
lijkter vid Gud, og ordner hön-
um þecker, þarfyrer lætur hann sier og eirnen þocknast vor Good
verk.

J þridia maata, ad Heilagur Ande er höfundur ad vorum
Goodverkum, þar fyrer hlytur þad Gude ad þocknast, sem hann
sialfur innblæs.

Hingad til hefur talad vered um Sidalögmaaled; Enn hvad meinast fyrer
þad Lögmaal sem Postulenn kallar Trwarennar
Lögmaal?

Evangelium.

Hvad

Hvad er Evangelium?

Evangelium er Naadar-Predikun wt af Christo og Fyrerheit umm andleg og eilijf giæde, vegna hans Forþienustn, þeim giefen, sem a hann trwa.

Hvor er Summa og innehalld alls Evangelii?

Þetta: So elskade Gud Heimenn, ad hann gaf wt sin Eingietenn Son, uppa þad, ad aller þeir sem a hann trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf. Joh. 3,16.

Hvor er Mismunur a mille Logmaalsins og Evangelii?

Þesse hinn sierlegaste, ad Logmaalid utheimter fullkomna hlydne, af þeim sem hialpast vill:



Enn

Enn Evangelium einasta Trw-
na a JEsum Christum.

Logmaaled auglyser Synd-
ernar, skielfer og deyder;

Enn Evangelium hugg-
ar og lijfgar.

Logmaaled hootar Bolf-
an vegna Syndanna ollum
Monnum.

Enn Evangelium yferlys-
er þvij ad madurenn fyrer
Trwna a Christum, verde
frij fra allre Bolvan og od-
lest GUDS Naad, Fyrer-
giefning Syndanna, Riett-
læted og eilijft Lijf.

Logmaaled syner Goodverkenn,
enn giefur ecke krapta til ad fram-
kvæma þau.

Enn

Enn Evangelium veiter Heilagann Anda, fyrer hvørs hialp vier giorum Goodverkenn.

Hvar er talad i Frædunum um Evangelium?

I Trwar jatningunne.

# Trwar-jatningen.

## Fyrsta Grein af Skøpuneñe.

Eg trwe a GUD Fodur almattugañ, Skapara Himens og Jardar.

Pad er:

Eg trwe ad GUD hafe skapad mig, asamt med øllum ødrum Skepnum, og ad hañ hafi giefed mier Ønd og Lijkama, Augu og Eyru,

og alla Lime, þarmed Skyn og Skilningar=vit, og ad hañ ollu þessu eñ nu vid magt helldur; hier til veiter hann mier og fyrersier, noglega og daglega, giefur Klæde og Skiæde, Mat og Dryck, Hus og Heimile, Konu og Børn, Akra og Kvikfie, og allt þad gott er, med ollu þvi eg þarf til þessa Lijfs Uppphelldis; hann verndar mig og vardveiter fyrer oll=um Skada og haaska; og ollum illum hlutum, og allt þetta veiter hann mier, af sinne skiærre fødurlegre og gudlegre Goodgiørnd og Miskun, an allrar minnar For=þienustu og verdskuldunar,

fyrer

fyrer hvad allt eg a honum. Lof og þackrr ad giora, honum ad þiona og hlydin ad vera: Þetta eru vissuleg Sannende.

## Annnur Grein af Endurlausnenne.

Og a JESUM Christum, Son hans Eingetenn, Drottenn vorn; hvored gietenn var af Heilogum Anda, fæddur af Mariu Meyu: Pijndur under Pontverskum Pilato, krossfestur, deyddur og grafenn: Nidurstie hann til Helvijtis: A þridia dege reis hann upp fra Daudum: Uppstie hann til Himna; situr hann til hægre Hand-

ar Guds Fodurs almatt-
ngs: Padan er hann kom-
ande ad dæma lifendur og
dauda.

Pad er:

Eg trwe ad JEsus Christ-
ur sie sañur Gud, af Fodurn-
um gieteñ fyrer allar allder,
og lijka sañur Madur, fædd-
ur af Mariu Meyu, ad
hann sie minn Drottinn, sem
mig glatadann, og fyrer-
dæmdann Mann hefur af-
rekad, endurleyst og frelsad
fra ollum Syndum, Daud-
anum og Diofulsens Vallde,
eige med Gulle nie Silfre,
helldur med sijnu Heilaga
og dijrmæta Bloode, og
med sijnum saklausa Dauda
og

og Pijnu, so eg verde hans eigennlegur, life under hans Valloe, i hans Rijke, honum þione i eilijfu Riettlæte, Meinleyse og Saaluhialp, lijka sem hann er af Dauda upprisenn, lifer og rijker ad eilijfu: Þetta eru vissuleg Sannende.

## Þridia Grein af Helgunenne.

Eg trwe a Heilagann Anda, Heilaga almennelega Christne, Samneyte Heilagra, Fyrergefning Syndanna, Holldsens Upprisu, og eilijft Lijf. Amen

Þad er:

Eg trwe ad eg gete ecke,

af ſialfs mijns eigenn krap-
te edur Skiiningi, trwad a
JESUM Chriſtum minn
Drottenn, edur til hans kom-
eſt, hellour hefur Heilag. An-
de mig fyrer Gudſpiallanna
Kenningu kallad og upplyſt,
med ſijnum Aſtgiøfum helg-
ad mig, og vidhallded i riett-
re Trw, lijka ſem hann alla
adra Chriſtna menn a Jør-
du kallar, ſamanſafnar, upp-
lyſer, helgar, og i riette Trw,
til JEſum Chriſtum vard-
veiter; i hvørre Chriſteleg-
re Kyrkiu hann naadarſam-
lega fyrergefur mier, og øll-
um Trwudum daglega allar
Synder, og a efſta dege mun
hann uppvekia mig, og alla
Menn

Menn af Dauda, og gefa
mier, og ollum Riett-trw-
udum i Christo eilijft Lijf:
Þetta eru vissuleg Sañende.

Uṁ hvad hondlar Trwar-
jatningen?

Uṁ Heilaga Guddomsins
Þrenningu, og hennar vel-
giorder vid oss Mennena.

Kann Gud og Guddomleg Verk ad
þeckiast med morgu moote?

Med Tvennu moote.
Fyrst af Natturunne.
Þarnæst af Guds Orde,

Hvad þeckia Menn um Gud af
Natturunne?

Þad ad hann sie til, eirn vijs
mattugur og rietsyn Gud, sem
vilie ad Men giore gott, og ford-
est þad illa.

Hvar til þienar soddan?

Fyrst til þess, ad Menn life
hid ytra skickanlega. Þar-

Þarnæst, ad þeir leite epter algiørdare GUds Þeckingu, sier til Saaluhialpar:

J þridia maata, ad þeir verde oassakanleger, ef ei so giøra.

Hvad þeckia Meñ um̃ Gud af hans Orde?

Hans Veru, Vilia, Verck og Velgiørninga.

Hvar til þienar soddan Þecking?

Til ad na eilijfu Lijfe, Joh. 17.

Seig mier þa wtaf Guds Orde, hvad er Gud?

Gud er ein andleg Vera, eilijf, omælanleg, alvitur, almaattug, allstadar nalæg; hin Siaalfradasta, Sannordasta, Riettvijsasta, Miskunsamasta, og Goodgiarnasta.

Er

Er Gud eirn, eda fleire?

Sa sanne GUD er ecke utan eirn, so sem skrifad stendur; Heyr Israel: Drottenn vor GUD, er eirn einungis Drottenn, Deut.6,4.

Hvad kiemur þa til þess, ad þu seigest trwa a Gud Fødur, Guds Son, og Gud H. Anda?

Þviad þar eru þriar adgreindar Personur i eirnre Guddomlegre Veru; Faderenn, Sonurenn, og Heilagur Ande.

Kantu ad bevijsa mier, ad þar sieu þriar adgreindar Guddomsens Personur?

Ja; þvi þegar Christur var skijrdur, hroopade Faderenn, sw Fyrsta Personan af Himne, seigiande:

iande: Þesse er minn Elskulegur Sonur, i hvorium mier vel þocknast.

Christur, annnur Persona Guddomsins, leit skijra sig i Aanne Jordan.

Og Heilagur Ande, sw þridia Persona Guddomsins, kom ofan yfer hann i Dwfu Lijking.

Er þa ecke riett sagt, ad Þrir sieu Guderner, med þvi ad Þriar eru Personurnar?

Nei, helldur er þad riettsagt, ad GUD sie Eirn ad Verunne, enn Þrennur ad Personunum.

Hvad seiger GUDS Ord þarum?

Þrir eru þeir, sem vitnisburdenn bera a himni, Faderenn, Orded og Heil. An-

Andi; og þesser þrir eru eitt. 1. Joh. 5, 7.

Hvørnen adgreinast Personur Gnddomsins?

Med utvortis og innvortis, Audkienningarteiknum.

Hvert er innvortis Audkienningar teikn Fødursins?

Ad gieta Sonenn fra eilijfd til eilijfdar.

Hvert er innvortis Audkienningarteikn Sonarens?

Ad verda gietenn af Fødurnum fra eilijfd til eilijfdar.

Hvert er Innvortis Audkienningarteikn H. Anda?

Ad frammganga af Fødur og Syne fra eilijfd til eilijfdar.

Hvor

Hvør eru þau itre Audkienning-arteiknenn, med hverium Persónurnar ad-greinast?

Utvortis Audkienningar-teikn Fodursins, er Skop-unin.

Utvortis Audkienning-arteikn Sonarens, er End-urlausnen.

Utvortis Audkienning-arteikn H. Anda, er Helg-unen.

Hefur þa einsamall Faderenn skapad þig, einsamall Sonurenn endurleyst þig, einsamall Heilagur Ande helgad þig?

Nei, helldur eru þesse Verk-enn øllum Persónunum sameig-enleg: Allar hafa skapad mig, Allar hafa framkvæmt Endur-lausnar Verked, og allar hafa helgad mig.

Þvi

Þvi tileinkast þa hvort Verk fyrer sig helldur eirnre enn annari?

Pad skiedur epter tilviisan Gudsorda, þviad sier hver Persónan hefur sig helldur i einu eñ ødru openberad.

A Endurlausnenn og so ad tileinkast øllum Persónunum?

Iá, i Vissan mata, þo ei hafe Hollded uppa sig teked, nie lided a þvi Piinu og Dauda, nema Sonurenn.

Eru þau innre Audkienningarteiknen, og so sameigenleg øllum Persónunum, eins og þau ytre?

O Nei, Þvi einginn gietur Sonenn nema Faderenn, og eingenn verdur gietenn nema Sonurenn, og eingenn er framgangande nema H. Ande.

Hvad margfalldur er sa Vilie Guds sem vier eigum ad þeckia af hans Orde?

Tvøfalldur:

Fyrst,

Fyrst, Riettlætis Vilie GUDs, sem oss er i Løgmaalenu Auglyst- ur um þad, hvad vier eigum ad giora og fordast.

Þarnæst, Naadarvilie GUDs, auglystur i Evangelio, um̃ þad hvad vier eigum ad trwa.

Hvoriu vill GUD ka fierdeiles ad, vier trwum?

Þessu, ad hann hafe af skiær- re Naad giefed oss sinn Son i Daudann, og ad hann fyrer- giefe oss Synndernar vegna hans Forþienustu, og vilie hialpa oss, sem eirn astudlegur Fader i allre Neyd, allt iñ i eiliijft Lijf, Joh. 3, 16. Psalm. 91, 15.

Hvar verdur þerlega talad um̃ þennan GUDs Vilia?

Christur seiger, þad er Vilie Fødursins, sem mig sende, ad hvor hann trwer a Sonenn, ha- fe eilift Lijf, og eg mun uppvek- ia hann a effsta Deige, Joh. 6, v. 40.

Eru

Eru margar Greinar Trwarjatningarennar?

Þriar.

## Fyrſta Greinin.

Uñ hvad hondlar fyrſta Grein Trwarjatningarennar?

Uñ Skopun og Vardveitſlu allra hluta.

Hvornen hliodar fyrſta Greinen?

Eg trwe a GUD Fødur allmattugañ Skapara Himins og Jardar.

Hvad er GUd Fader?

Hann er ſu fyrſta Perſona Guddomſens, Skapare, Vardveitare og Stiornare allra Hluta.

Hvar fyrer kallast su fyrsta Persona Guddomsens Fader?

Þvi hun hefur i fra ei liisu gieted sinn Hiartans Son, vorn Lausnara.

Hvad er þad ad trwa a GUD Fødur?

Þad er ecke einasta ad trwa þvi, sem GUDs Ord seiger um hans Personu, Vilia, Verk og Velgiørninga, helldur og eirnen ad setia allt sitt Traust til hans i Lijfe og Dauda.

Hvar fyrer tileinkast Skøpunen sierdeilis Fødurnum?

Þvi hann er su fyrsta Personann, og so sem upp spretta alls Guddomsens. Þar næst, so Menn lære helld-

helldur ad giora Greinarmun Personanna, med þvi hinar hafa aunnur kiennemercke, af hvorium þær kunna ad þeckiast: Synenum tileinkast Endurlausen; H. Anda Helgunen.

Af hvoriu kantu ad vita ad GUD sie almattugur?

Þvi hann hefur skapad Himenn og Jord af aungvu Efne, og helldur ollum hlutum vid makt. Heb. 1, 3.

Þvi er þess so fierdeilislega gieted ad GUD sie almaattugur?

So ad vier sieum vissare um þad hann giete hialpad oss i allre Neyd, og frelsad fra ollu illu.

Mun hañ og so hafa Vilia til ad hialpa oss?

O ja,

O ja, þessvegna kallast hann og eirnenn vor Fader, ad hann hefur fódurlegt Hiarta til vor: lijka so sem Faderenn er Børnunum lijknsamur, eins þa er Drottenn miskunsamur þeim sem hann ottast. Psal. 104, 13.

Eru skapader hlutur margslags?

Tvennslags: Syneleger og Osyneleger.

Hvorier eru þeir Synilegu?

Himen og Jord og allt hvad þar er inne.

Hvorier eru þeir Osynelegu?

Einglarner.

Eru Einglarner margslags?

Tvennslags: Gooder og Vonder.

Hvoria kallar þu Gooda?

Þa sem stodu stoduger i medskøpudu Riettlæte, og ecke fiellu fra

fra Gude; Hvar fyrer þeir eru nu so Stadfaster i þvi hinu Gooda, ad þeir kunna ecke framar ad falla.

Hvoria af Einglunum kallar þu Vonda?

Þa sem ecke stodu stoduger i medskopudu Riettlæte og Heilagleika; so sem er Dioflullenn og allar hans Aarar: Þess vegna vard þeim nidurkastad i Helvijte, hvar þeir munu pijnast um alla Eilijfd.

Hvada Embætte hafa þeir Goodu Einglarner?

Þeirra Embætte er ad þiona Gude, lofa hann og vegsama; og ad hafa Giætslu og Umsion a oss Monnunum, so vier hrepum ecki i Olucku. ꝛc.

Hvor er su ypparsta Guds Skiepna?

Madurenn.

Hvornen var Madurenn i Fyrst-
unne skapadur?

Hann var skapadur epter Guds
Mynd og Lijking.

J hvoriu var su Guds Mynd og
Lijking innefalen?

Fyrst, var hun innefalen i full-
komenne Þeckingu GUDS og
Gudlegra hluta.

Þar næst, i Heilagleikanum
og Riettlætenu.

J þridia maata, i Odaudlegleik-
anum.

Mun þesse Guds Mynd hafa ut-
kvijslast fra Adam til hanns
Epterkomenda?

Nei, helldur forgieck hun strax
sem hann fiell i Paradijs.

Fædast þa aungver i Heimenn
Gude lijker?

Aungver, þviad vier erum
syndsamlegu Sæde gietn-
erdustum holld af hollde.

Kunna

Kunna Menn nockurn tijma ad fa aptur Guds Mynd?

Ja, Heilagur Ande tekur til ad rietta hana vid aptur i Skyrnenne, og sijdan meir og meir fyrer daglegann Voxt og Vidgang þess Nya Mannsens, hia þeim trwudu, allt þar til hun i ødru Lijfe mun fullkomen verda.

Hvorier eru þeir hellstu Velgiorningar Guds Fødurs þier til handa?

Hann hefur skapad mig, veitt mier Ønd og Lijkama, Skyn og Skylningarvit.

Hann hefur giefed mier þad sem mig mest um̃vardar, sinn eilskulegann Son JEsum Christum til Endurlausnar.

Hann vidhelldur mier, og

ollu þvi, sem hann hefur gief-
ed mier.

Hann veiter mier dagle-
ga Forsorgun, bæde fyrer
Saal og Lijf.

Hann vardveiter mig
fra Dioflenum og allre O-
lucku.

Hvarfyrer giorer hañ þetta?

Hann giorer þad af sinne
Fodurlegre og Gudlegre
Goodgirnd og Miskun, an
allrar miñar Forþienustu og
Verdskulldunar.

Hvor er þijn Skyllda aptur a
moot vid Gud, fyrer alla
hans Velgiorninga;

Eg a honum Lof og Þack-
er ad giora. Honum ad
þiona og hlydenn ad vera.

Aun-

# Aunnur Greinen.

Um̃ hvad hondlar Aunnur Grein Trwar-jatningareñar?

## Umm Endurlausnena.

Hvornen hliodar þesse Grein?

Eg trwe a JEsum Christum, Son hans Eingetenn Drottenn vorn ꝛc.

Hvad fyrer eirn er JEsus Christus?

Hann er su Onnur Persona Guddomsens, Sannur Gud, og Sannur Madur,

Hvornenn gietur þad vered, ad JEsus Christur sie bæde Gud og Madur?

Þad gietur so vered, ad GUds Sonur, su aunnur Persona Guddomsins stie

nidur i Lijf Jomfru Mariu, og tok þar uppa sig Manndomlega Natturu, fyrer H. Anda verkan, og fæddest so af henne sannur GUd og sannur Madur.

Hvad er þad ad trwa a JEsum Christum Guds Son?

Þad er ecke einasta ad trwa þvi, sem GUds Ord seiger, umm hans Personu, Vilia, Verk og Velgiorninga, helldur og 2c.

Eru margar Nattwrur Christi?

Tvær, Guddomleg og Manndomleg.

Hvad meinar þu fyrer þa Manndomlegu Nattwruna HErrans Christi?

Hans Saal og Lijkama, med

med ollum Eigenlegleikum Saalar og Lijkama.

Hvad meinar þu fyrer þa Guddomlegu?

Guddomlega Veru med Guddomlegum Eigennlegleikum.

Af hvorium hefur Christur sijna Guddomlega Nattwru?

Af Gude sijnum Fodur.

Er hann þa gietenn eda skapadur?

Hann er gietenn, enn ecke skapadur.

Hvadnær skiede þad?

Fyrer allar allder, þvi hann er Fodurnum sameilijfur, og hefur eckert upphaf.

Af hvorium hefur Christur sijna Manndomlegu Nattwru?

Af sinne Modur Maria.

Nær tok Christur uppa sig Manndomlega Nattwru?

I tijmans uppfyllingu, þegar Heimurenn hafde stad ed hier umm fiogur þusund Ar.

Eru þessar tvær Nattwrur Christi samteingdar sijn a mille?

Ja.

Hvornenn er þeirra Einingu vared?

Hun er soddann eitt dasamlegt Guds Verk, sem geingur yfer allann mannlegann Skilning, og eingenn Sameining Nattwrlegra hluta, jafnast vid hana.

Hvi so?

Þviad þo Nattwrurnar Christi

ſti ſieu miog olijkar ſijn a mille, og hvør bijhallde ſijnum Eigenlegleikum, þa ſamt eru þær þo fyrer utann allt innbyrdis ſambland, edur umbreiting eirnrar i adra, ſo naakvæmlega ſamteingdar i eirnre Perſonu, ad þær kunnu ecke i Daudanum ad adgreinaſt, hvar fyrer og eirnenn ad þeirra Sameining mun og ſo blijfa oráſkanleg ad eilijfu.

Er Perſonan Chriſti ein eda fleire?

Ein er Perſonan Chriſti, þvi Chriſtur er ecke utann eirn; 1. Tim. 2. v. 5. 1. Cor. 8. v. 6.

Lijka ſo ſem Saal og Lijkame er eirn Madur, ſo er Chriſtur ſannur GUD og ſannur Madur ein Perſona.

Hvad þijder Nafned JEsus?

Þad þijder Frelsara, Endurlausnara, Saluhialpara.

A hvad minner þig þetta Nafn?

Þad minner mig a alla Christi Forþienustu og Velgiorninga mier veitta.

Hvörier eru þeir hans Velgiorningar?

Allt hvad hann giorde, þad giørde hann minna vegna; Hann var gietenn og fæddur minna vegna; hann var ummskorenn og skyrdur minna vegna; Hann uppfyllti Logmaled minna vegna; Hann var Freistadur, Pijndur, hwdstryktur, og Þyrnekryndur minna vegna;

na; Hann var krossfestur, Deyddur og Grafenn minna vegna; Hann Uppreis fra Daudum, Uppstie til Himna og þetta allt minna vegna; Hann situr til Fodursins hægre Handar, og bidur fyrer mig sinn Himneska Fodur vaflatanlega.

Hver er sa ædste af ollum þessum velgiorningum, sem þier ma hellst ganga til Hiarta?

Sa, ad hann med uthellingu sijns heilaga Bloods, og sijnum saklausa Dauda og Pijnu, betalade fyrer allar mijnar Synder og forlijkade mig vid sinn Himneska Fodur.

Hvornen kann Pijna og Daude eirn-
var Personu ad vera fullgilldur betal
ningur fyrer allra Manna Synd-
er, og forþiena þar med
eilijf Giæde?

Þviad þesse Persona Christ-
ur sem leid, var bæde GUD og
Madur, þar fyrer, so sem GUD
er omælanlegur og oendanlegur,
so er og eirnen verd og viktuglei-
ke hans Pijnu omælanlegt, og
oendanlegt, og hlaut þvi ad gill-
da meir enn Synda Sekt allra
Manna.

Hefur þa Gud daed fyrer þijnar
Synder?

Ad vijsu hefur hann pijnst og
daed fyrer minar og alls Heim-
sens Synder.

Kantu ad bevijsa þad af Guds
Orde?

Ja, þvi H. Ande seiger, ad
Drottenn dyrdarennar hafe ver-
ed krossfestur, 1. Cor. 2. v. 8.

Hof-

Høfundur Lijffens deyddur, Act. 3. v. 15. Guds Sonur hafe giefed sig wt fyrer oss, Gal. 2. v. 20. Og GUD hafe utvegad Søfnudenn med sijnu Bloode, Act. 20. v. 28.

Gud er eirn Ande, hvornen kunne hann þa ad deya?

Þegar sagt verdur, ad GUD hafe pijnst og daed, meinast þar med (so sem adur er umgieted) GUDS Sonur, sem bæde var GUD og Madur; enn hann do ecke i sijnum Guddome, helldur i sijnum Manndome.

Jeg vil ad þu giorer enn frekare utskyring a ollu þessu?

Saal og Lijkame Guds Sonar voru honum so eigennleg, so sem mier er mijn Saal og mijn Lijkame, þar fyrer, hvad hellst hann leid a sinne Saalu og Lijkama, þad leid oll hans Persona, og reiknast þui Pijnan hans

E 7 eins

eins dyrmæt i GUDS Auglite, so sem sialf Nattwrann su Guðdomlega hefde hana lided, þvi ad badar Nattwrunnar eru eins eigenlegar Christo.

Lijka so sem sw pijna sem eg lyd, er mier eins eigenleg, og reiknast mier eins til, hvort helldur hun þvingar Saal edur Lijkama, so og lijka var Christo sw Pijna, sem hann leid a sijnum Manndomi eins eigenleg, so sem hann hefde lided hana i sijnum Guddome.

Hvor eru þa hellstu rök til þess, ad sagt verdur ad Gud hafe lided?

Þesse, ad Personan Christur sem leid, var GUD, og hans Personulegleike var Guddomlegur.

Er Gud ecke oriettviis i þvi, ad hann fordæmer Vantrwada, fyrer hvorra Synder Christur hefur fullu betalad?

Nei:

Nei: Þvi þad hefur vered so aliktad i Raade heilagrar Guddomsins Þrenningar fra eilijfu, ad þeir einer skylldu niotande verda Lausnargialldsens, sem Christur Guds Sonur utlagde, er villdu tilreikna sier hans Forþienustu med Trwnne.

Hvar til þiena þier aller Christi Velgiorningar?

Þeir þiena mier til Endurlausnar og Saluhialpar.

Fra hvoriu hefur Christur þig endurleyst og frelsad?

Fra Syndunum, Bolvan Logmalsins, Guds Reide, Daudanum. Dioffulsins Vallde, og eilijfre Fyrerdæmingu.

Hvada Giæde hefur hann þier utvegad aptur a mot?

Guds Naad, Fyrergiefning

ning Syndanna, riettlæted, H. Anda, Frid Samvijtskunar, og eilijft Lijf.

Med hvoriu hefur Christur endurleyst þig?

Eige med Gulle nie Silfre, helldur med sijnu Heilaga og dyrmæta Bloode, og med sijnum saklausa Dauda og Pijnu.

Til hvørs hefur hann Endurleist þig?

Ecke til þess ad eg meige lijfa og lata sem Hollded vill, helldur ad eg skule vera hans eigenleg Eign, þiona honum i Heilagleika og Riettlæte, elska hann, lofa hann og vegsama, og uppa þad eg skule epter þetta Lijf med hon-

honum lifa og riikia um̃ alla Eilijfd.

Hvada Nafn er þad Christur?

Þad er sama og Messias og þijder so miked sem Smurdur.

Var Christur Smurdur?

Ja. Psal. 45. v. 8.

Epter hvorre Natturunne var Christur smurdur?

Epter þeirre Manndomlegu.

Hvor smurde Christum?

Sa þrijeine GUD.

Med hvoriu var Christur smurdur?

Med Gledennar Vidsmiere / þad er med H. Anda / Act. 10. v. 38.

Hvad ödladest Christur med Smurningunne?

Alla Guddomsens Eigenleg-leika.

Hvorier eru þeir Eigenlegleikar?

Almætted / Alviskann Alstad-ar nalægden / lijfgunar kraptur-enn /

enn, Gudleg tilbeidslunar dyrk-
un, Vallded ad fyrergiefa Synd-
ernar af eigenn Myndugleika,
Valld til ad dæma Lifendur og
Dauda.

Til hvørs ødladest Christur þessar Gaf-
ur, edur Guddomsens Eigenleg-
leika i Smurninaunne?

So ad hann þess frøptulegar
epter baadum Nattwrunum
frammkvæmde sitt Medalgøngu
Embætti, Mañkynenu til gooda.

Er Margfalldt Embætte
Christi?

Þrefalldt: Spamann-
legt, Kiennemannlegt, og
Konglegt.

I hvøriu er þad Spamann-
lega innefaled?

Þad er innefaled i Ord-
sins Prædikun edur openn-
beran þess Himneska Sann-
leika. Joh. 1. v. 18.

Hand-

Haudtierar Christur sitt Spamannlega Embætte enn nu a þessum Dogum?

Ja, Allt til Heimsins Enda haudtierar hann þad fyrer sijna Þienara Kiennemennena.

J hvorin er þad kiennemannlega Embættid innefaled?

J þvi hann utlagde fullkominn Betaling fyrer allar vorar Synder med sinne saaru Kvol og Krossens Dauda.

Þar nærst i þvi, ad hann bidur sinn Himneska Fodur, fyrer oss o-aflatanlega, Rom. 8. v. 34.

J hvoriu er þad Konunglega Embætted Christi innefaled?

J Stiornan hans Maktar-

arrijkes, Naadarrijkes, og Dyrdarrijkes.

Framkvæmer Christur sitt Madalgongu Embætte epter badum Nattwrunum?

Ja.

Er Rijked Christi margfallt?

Þrefalldt.

Maktarrijked, Naadarrijked og Dyrdarrijked.

Hvad er Maktarrijked?

Þad er vollduat Herradæme og Stiorn yfer ollum hlutum a Himne og Jordu.

Hvad er Naadarrijked Christi?

Þad er Nadarsamleg Stiornan og Vardveitsla Christelegrar Kirkiu i þessum Heime.

Fyrer

Fyrer hver Medøl skiedur soddan?

Fyrer Orded og Sacramenten.

Med hvoriu moote?

Christur, so sem eirn vollduglgur Kongur og Høfud Safnadarens, lagar øll vor Efni Gudi til Dyrdar, og oss til Saaluhialpar.

Hvad gott hefur þu af þessare Stiornan?

Riettlæti Frid og Fognud i H. Anda, Rom. 14. v. 17.

Hvad er Dyrdarriked Christi?

Yferdrottnan allra wtvaldra a Himnum.

Er Stand Christi Margfalldt?

Tvofalldt.

NidurlægingarStand, og Uppheffningar Stand.

Hvorre

Hvorre Naattwrunne Christi Heyrer til, bæde Nidurlægingar Standed og Upphafningar Standed?

Þeirre Manndomlegu.

Nær byriadest Nidurlægingar Standed?

A Fyrsta Augnablike Gietnadarins.

Nær endadest þad?

Þegar hann vard lifande aptur i Grøfenne.

J hvoriu var Nidurlægingar Standed Christi innefaled?

J þvi ad hann brukade ecke alltijd, og ad øllu leite, meddeilda Guddomsens Hatign, helldur lijtelæckade sialfann sig, tok uppa sig Mynd eins þions giørdest ødrum Mønnum lijkur, og var ad hegdan fundenn sem Madur / Phil. 2. v. 7. 8.

Hvad meinar þu fyrer þa Guddomsins Haatign, sem Christur hiellt sier fra ad brwka?

Fyrer

Fyrer hana meina eg Guddomsens Eigenlegleika, so sem ad er, Almætted, Alvitskan, og allstadar Nærveran.

Hvarfyrer gaf Christur sig i soddann Nidurlægingu?

Til þess hann kynne ad lijda og deya, og frammkvæma so Mannkijnsins Endurlausn.

Hvarfyrer er Christur daenn?

So ad hann frelsade oss fra þeim eilijfa Dauda.

Hvarfyrer er Christur grafenn?

Fyrst, so ad þar af sæest, ad hann være sannarlega daenn.

Þar næst, ad hann helgade vorar Grafer, med vidkomu sijns allra heilagasta Lijkama.

J þridia maata, so ad hann

hann 'græfe med sier, vorar Synder.

La Christur leinge i Grøfenne?

Fra þvi a Føstudags Kvollded/ ſkommu fyrer Solarlag/ og þar til a Paſkadags Morguneñ ſnemma/ þa hann reis upp fra Daudum.

Med hvorium ordum ar talad um Nidurlægingar Standed Christi i Trwarjatningunne?

Med þessum fierdeilis.

Pijndur under Pontio Pilato/ kroſſfeſtur/ deiddur og grafenn.

Nær biriadeſt Upphafningar-Standed Christi?

Þegar þad fyrra endadeſt.

Nær fullkomnadeſt þad?

Þegar hann ſettiſt til Fodurſins Hægre Handar.

Hvad meinaſt fyrer Upphafningar-Standed Christi?

Su vegſamlega Haatign/ ſem hann

hann odladest epter Manndomenum, i sinne Uppriſu og Uppſtigning, med fullkomenne og ſtvarande Brukun, allra Guddomſens Eigenlegleika.

Med hvorium ordum er talad um Upphafningar-Standed Christi?

Þessum. Nidurſtie hann til Helviſtis, a þridia deige reis hañ upp fra Daudum, uppſtie hann til Himna, og ſitur til GUDS Fodurs Hægre Handar, þadan er hañ komande ad dæma Lifendur og Dauda.

Nær ſtie Chriſtur nidur til Helviſtis?

Strax ſem hann hafde byriad ſitt Upphafningar-Stand.

Til hvors ſtie Chriſtur nidur til Helviſtes?

Ecke til ad liſda þar nockrar Kvaler, eda beriaſt vid

F Diof-

Diofulenn. Helldur Fyrst, til ad hroosa volldugum Sigre, yfer Dioflenum og sijnum Ovinum.

Þar næst, ad Auglysa sijna Einvallds Mackt yfer Lifendum og Daudum.

J þridia maata, ad skielfa þa Fordæmdu med ogn Logmaalsens og Fordæmijngarennar.

Hvad framkvæmde Christur epter sijna Nidurstigning til Helvijtis?

Hann opennberade sig lifande fra Daudum Uppriseñ.

Er þad vijst ad Christur sie fra Daudum uppriseñ?

Ja, þad er oraskanlegur Sannleike, þvi þad hafa vit-

vitnad og stadfest, bæde GUD sialfur, so og einnen Heilager menn og Einglar.

Framseigdu mier Vitnisburd H. Anda um upprisu Christi?

Eingillenn sagde til Kvennanna: Hrædest ecke! þier leited ad þeim Krossfesta JEsu af Nazareth, hann er upprisinn og er ecke hier. Og St. Paall seiger: Christur er utgiefenn fyrer vorar Synder, og upprisenn oss til Riettlætis.

Hvort Gagn hofum vier af Christi Upprisu?

Fyrst, uppreis hann, so ad hann auglyste oss, ad hann hefde fullkomnn Sig-

ur unned, betalad fyrer vor-
ar Synder, og utvegad oss
þad sanna Riettlæte.

Þar nærst, so ad hañ fær-
de oss i nyt sitt Rietlæte
(þad er alla siijna Forþien-
ustu og Velgiorninga.)

J þridia maata, so vier
i Krapte hans Uppriisu, upp-
riisum andlega hier i Liife
og a siidasta deige ur Grøf-
unum til eiliifs Liifs.

Var þad leinge sem Christur umgieckst
ad odru hvoriu, med siinum Lære-
sveinum epter þad hann
uppreis fra Daudum?

J 40 Daga, þar til hann upp-
stie til Himna.

Er Christur uppstigen til
Himna?

Ja.

Hvar-

Hvar fyrer' stie Christur upp til Himna?

Fyrst, so ad hann full-komnade sitt Upphafningar Stand med sinne Setu til Fodursins hægre Handar.

Þar næst, so ad hann upplyke fyrer oss Þeirre Himnesku Paradiis.

J Þridia maata, so ad hann være vor Arnadarmadur hia Fodurnum.

J Fiorda maata, so ad hann sende oss af Himnum ofann H. Anda.

Hvada Himen er þad, sem Christur stie upp til?

Ecke er þad nockur skapadur synelegur eda takmarkadur Himen, helldur er þad Himen GUds

Almættes, Allstadar-nærveru og omælanlegrar Hatignar.

Er þa Christur ecke framar Nalægur hier a Jørdunne?

Sannarlega er hann hier epter baadum Nattwrunum personulega nalægur, þvi hann seigest vera hia oss alla daga allt til Veralldarennar Enda. Matth. 28, 20.

Hvad meinast fyrer hægre Hønd GUDS?

Dyrdarsamleg Hatign, Makt og Stiornan Guds, yfer ollum Skøpudnm Skiepnum.

Hvad merkest fyrer Setu Christi til Guds hægre Handar?

Fullkomen og æuarande Brukun Dyrdarsamlegrar GUDS Haatignar, Maktar og Stiornunar yfer ollum skøpudum Skiepnum.

Hvørre

Hvorre Rattwrunne Christi tileinkast
þesse hans Seta til Fodursins
Hægre Handur?

Þeirre Manndomlegu, þvi
hun kunne ad hefiast, og verda
jofn þeirre Guddomlegu ad allre
Magt, Hatign og Yfer-Drottn-
än. Philipp. 2, v. 6.

Hvad Gagn hefur þu af Setu
Christi til Fodursins Hæg-
re Handar?

Eg hefe þad Gagn af
henne, ad hann, sem volld-
ugur Drottenn og Hofud
Safnadarens, verndar mig
og frelsar fra ollum mijn-
um Ovinum; Hann hlut-
ast til med mier, so sem sijn-
um Andlegum Lim ad eflast
i ollu Godu, og giorer mig
umsijder eilijflega Saluholp-
enn.

Mun Christur koma nockurntij-
ma aptur til vor af Himne?

Ja, hann mun koma a
sijdasta deigi bersynelega i
Manndomlegre Asynd, med
stærstu Makt, Dyrd og Ha-
tign, ad dæma alla Menn
Lijfs og Lidna.

Hvar mun hann þa openn-
berast?

I Skyum Himens.

Mun hann koma einsamall til
Domsins?

Nei! helldur munu aller Hei-
lager Einglar med honum koma.

Hvornen mun þad tilganga um
Domenn a Sijdasta Deige?

Fyrst mun sa þrieine GUD,
fyrer Raustu og Verkan Drott-
ens vors JEsu Christi, uppvekia
alla Menn af dauda, og giøra
þa sem þa verda lifande, a einu
Augnablike umskiptelega.

Þar-

Þar nærst, mun vor Endur-lausnare utsenda sijna Eingla til ad samansafna ollum Mønnum fyrer sig ur fiorum attum Heims-ins, og adgreina so þa vondu fra þeim goodu, setiande þa Goo-du sier til hægre Handar, enn hina til vinstre.

J þridia maata, mun hann uppseigia Domenn, fyrst yfer þeim Gudhræddu til hægre Hand-ar, soleides: komed þier Blessad-er mijns Fodurs, ꝛc.

Þar nærst, mun hañ seigia til þeirra ogudlegu: fared fra mier Bolfader i eilifann elld, ꝛc.

Gietur þu af þijnum eigenn kroptum orded niotande JEsu Christi Vel-giorninga?

O Nei.

Hvornen kantu þa ad hialpast?

Heilagur Ande styrker mig þar til.

Hvar er talad um̃ soddan i Frædunum?

J þridiu Greinenne,

## Þridia Greinin.

Um̃ hvad hendlar þridia Greinen?

1. Um̃ H. Anda, hans Verk og Velgiorninga.
2. Um Christelega Kirkiu
3. Um̃ Fyrergiefning Syndanna.
4. Um Holldsins Upprisu.
5. Um eilijft Lijf.

Lestu mier upphafed a þridiu Greinenne?

Eg trwe a Heilagann Anda og ad sie ꝛc.

Hvad

Hvad er þad, ad trwa a H. Anda?

Þad er ecke einasta ad trwa þvi, sem GUds Ord seiger, um hans Persoonu, Vilia, Verk og Velgiorninga, helldur og einnen ad setia allt sitt Traust til hans bæde i lijfe og dauda.

Hvad fyrer eiun er Heilagur Ande?

Hann er sw þridia Persona Guddomsens, einnrar og hinar somu Veru, Maktar, og Dyrdar med Fodur og Syne; frammgangande af þeim baadum.

Bevijsadu þad, ad Heilagur Ande frammgange af Fodurnum?

Christur seiger, þegar sa

Huggaainn kiemur, hvørn eg mun senda ydur af mijnum Fodur, Sannleikſens Ande, ſem af Fodurnum frammgeingur.

Beviſſadu þad, ad Heil. Ande frammgange af Synenum?

H. Ande kallaſt Ande Muns Chriſti, og Ande Vara Chriſti, og þegar Chriſtur gaf Poſtulum um H. Anda, blies hann a þa; þar fyrer er þad vijſt ad Heilagur Ande er af Chriſto framgangande.

Hvar fyrer kallaſt ſu þridia Perſona Guddomſins fierdeleslega Ande?

Fyrſt og fremſt af þvi, ad hun i outſkijranlegann maata, verdur blaſinn af Fodur og Syne. Þar næſt af þvi, hun er ein Andleg Vera.

J þridia maata af þvi, hun verkar

verkar andlegar Hræringar i Hiørtum Mannanna.

Hvar fyrer kallast Ande Guds Heilagur?

Fyrst, af þvi hann er verulega Heilagur.

Þar næst, þessvegna ad hann er Høfundur þess rietta Heilagleika, og giører alla Trwada heilaga.

Hvørier eru þeir hellstu Velgiørningar Heilags Anda, sem hann hefur veitt þier?

Hann hefur kallad mig ur Rijke Diøfulsins og i Rijke Christi.

Hvad meinar þu fyrer Rijke Diøfulsins?

Skadlega Synda Ydiu, i Reidennar Stande.

Er stand Mannsens margfallt? Ferfallt.

1. Fullkomlegleikans Stand / fyrer Falled.
2. Yfertrodslunnar og Neidenar Stand epter Falled.
3. Vidriettningarennar stand fyrer Trwna a JESUM Christum.
4. Dyrdarennar Stand epter þetta Lijf.

Hvada Rijke Christi er þad i hvört H. Ande hefur þig kallad?

Þad er fyrst Nadarrijked hans hier i Heime, og sidan Dyrdar-rijked annars Heims.

J hvoriu er Kollun H. Anda innefalen?

Hun er iñefalen i giædsku-rijku tilbode, og innvortis hræringu, til ad giora Jdran, og trwa a JESUM Christum.

Hva-

Hvada Medal brukar H. Ande til ad kalla Manneñ?

Gudspiallanna kienningu, edur Prædikun Evangelii.

Hvøriar eru fleire Velgiørder H. Anda, sem hañ hefur veitt þier og veiter?

Hann hefur Endurfædt mig.

Hann hefur upplyst mig med sijnum Astgiofum.

Hann helgar mig.

Hann vidhelldur mier i Trwnne.

Hann fyrergiefur mier daglega Syndernar.

Hann veiter mier Hugg-un og Þolennmæde i mot-lætenu.

Hann mun uppvekia mig af

af dauda, og giefa mier ev lijft Lijf.

Hvornen er talad um þetta i Trw-arjatningunne?

Helldur hefur Heil. Ande mig fyrer Gudspiallanna Kienning, kallad og upplyst med sijnum Aft-giøfum, helgad mig og vidhalld-ed i riettre Trw, ꝛc.

I hvøriu er Endurfædingen innefalen?

I Upplysingu Skilnin-ſens, og Giof Trwrennar.

Hvad gott hefur þu af Trwnne, sem H. Ande hefur þier giefed?

Med henni tek eg Christ-um til mijn, og hans Riett-læte.

Hvad meinar þu fyrer Christi Riettlæte?

Hans dyrmætu Forþien-uſtu,

ujtu, þad er, allt hvad hañ giorde og leid.

Til hvors villtu ødlaſt Chriſti Riettlæte?

Eg vil bera þad framm fyrer Drottenn i mijnu Hiarta, ſo ſem Betaling fyrer mijnar Synder, til ad ſtilla hans Reide. Jeg vil hafa þad og einnenn mier til Forſvars a mote aklǫgun Diofulſens, Logmalſens, og ſialfrar minnar Samvitſku.

Hvornen kann Chriſti Riettlæte ad verda þier til Forſvars?

Þvi allt hvad hann giorde og leid, þad giorde hann og leid minna vegna, hans Riettlæte er fullkomenn Betalingur fyrer allar mijnar Synder.

Verdur þu þa Riettlaatur fyrer Chriſti Riettlæte?

Ja.

I hvorin er þijn Riettlæting innefalen?

I Fyrergiefningu Synd-anna, og tileiknan Christi Riettlætis.

Kantu ad beviisa þad ut af Guds Orde, ad Christur heyre hier til med siinu Riettlæte?

O ja; þvi Postulenn vottar, ad Christur sie giordur oss af Gude til Viisdoms, Riettlætis, Helgunar og Endurlausnar. 1. Cor. 1, 30. Og sialfur Endurlausnaren seiger: So elskade GUD Heimenn, ad hañ gaf ut siñ Eingietenn Son, uppa þad, aller þeir sem a hann trwa, fortapest ecke, helldur hafe eiliist Liif. Joh. 3, 16.

Hvad

Hvad utheimtest af þier til þess, ad þu kunner ad verda Riettlaatur og Saaluholpenn?

Sonn Jdran og Trw a JEsum Christum.

Eru marger Partar Trwarennar?

Þrir.

Hvor er sa Fyrste?

Riett Þecking a Gude og hans Dasemdum.

Hvor er Annar?

Samsinningen, ad hallda þad allt satt ad vera, sem Gud kienner oss i sijnu Orde.

Hvor er sa Þridie?

Sialft Trwnadartrausted til Guds, um Fyrergiefningu Syndanna, vegna Christi Forþienustu.

Eru þeir aller riettrwader, sem jata soddan Trw med munnenum?

Nei: Þvi þar giefast marger Hræsnarar, sem nalægast GUD med

med Vørunum, enn þeirra Hiarta, er þar langt fra. Esai. 29, 13.

Hvornen kann eg þa ad vita, hvort einn er riettrwadur?

Sa sem jatar þa riettu Trw med munnenum, og lifer epter Guds Orda Reglu, hann er ad mijnum Dome riettrwadur, þvi vondt trie kann ecke ad bera godann Avoxt. Matth. 7, 18.

Hvad giorer H. Ande þegar hann upplyser mannenn?

Hann fræder hann i saluhialplegre Þeckingu GUds Orda, og pryder med sijnum afgiofum.

Hvoriar eru þær hellstu Afgiafer H. Anda?

Þad er Trwen og hennar avexter, so sem er Kiærleike, Hogværd, Lijtelæte, Þolenmæde, Værrækne, Miskunseme, og adrar þvilijkar Dygder og dader.

Hvad meinast fyrer Helgilsi H. Anda?

(Allar Naadar Velgiorder H. Anda

Anda kallast ad sønu Helgun, enn)
Fyrer hana meinast sierdeil=
islega andleg Endurnyung
mannsens.

Jhvoriu er þijn Endunyung
innefalen?

Hun er fyrst iñefalen i dag=
legre deydingu þess Gamla
Mannsens.

Þar nærst i lijfgun þess
Nya Mannsens.

Hvad er þad ad deyda kann gam=
la Mannenn?

Þad er ad aptra sier sialfum
daglega, i þvi ad hura tala og
giora þad sem illt er.

Hvad er ad lijfga þann nya
Mannen?

Þad er ad leggia allt Kapp a,
ad vara og kroast ætijd meir og
meir i øllum Dygdum og dadum
allt til æfeloka.

Þetta

Þetta eru Verk eins Trwads manns hvornen tileinkast þau þa H. Anda?

Heilagur Ande er Høfundur ad þessum verckum og hialpar mannenum og so til ad framm-kvæma þau.

Nær byriade H. Ande fyrst ad audsyna þier sijna Velgiorninga?

J Skijrnenne.

Helldur hann so gaglega afram i þvi ad hialpa þier?

O Ja; þviad fyrer Orded / og Kvølldmaltijd JEsu Christi / nærer hand andlegt Lijf minnar Salar; og so opt sem eg fell i daudlegar Synder / kallar hann mig miskunsamlega avturtil Nad-arennar / og giefur mier sann idrande Hiarta: Hialpar mier so til ad umfadma Christi Riett-læte med Trwnne / og ad lijfa þad epter i Endurnyungu Lijf-daganna.

Hvor-

Hvornen ferdu ad umfadma Christi Riettlæte?

Jeg trwe þvi, ad Christur hafe fyrer mig lided, og reikna alla hans Forþienistu mijna, treyste so Gude efunarlaust til þess, ad hann af Naad sinne, giefe mier þad allt kvitt, vegna hennar, sem eg hefe honum a moteþroted, og ad hann giøre mig einnen niotande allra þeirra Giæda, sem Christur hefur mier med sinne Pijnu og Dauda utvegad.

Hvad er þad sem Menn kalla Fijvilia?

Þad er Kroptugt Sialfræde, ad giøra eitt helldureun annad: Item ad giøra, og giøre ecke, þad sem Hugskoted tilvijsar, og er i Mannsens vallde.

Hvar a soddan Frijvilie Mannsens heima?

Hann a fyrst heima i Natturlegum Efnum, so sem ad vaka og

og sofa, sitia og standa, eta og drecka.

Þar nærst, i Veralldlegum utriettingum og Husstiornar umstyslan; so sem, ad kaupa og selia, hefia Strijd og hallda Doma; lifa i Einlijfe, og innganga Hionaband.

J þridia maata, a hann heima i morgum Sidferdis haattum; so sem, ad lifa stickanlega, vera goodvikenn vid Naungann, meida hann ecke; og þar þvert a moote, ad liuga og stela, fremia Saurlifnad, og þvinmlijkt.

J Fiorda maata, a Frijvilienn heima i ytre Heilagleikans athofnum, so sem, ad sækia Messu, vera vid Tijder, heyra, lesa, og ihuga GUDS Ord af eigenlegre Fysn og Nattwrunnar Innblæstre.

Mun-

Mun þad og so i vallde og Frijvilia þess sem er vantrwadur, ad snua sier til Drottens; giöra sanna Jdran, trwa a JEsum Christum; akalla Gud i Anda og Sannleika; forakta þessa Heims Daglæte; og stunda epter eilijfu Liife?

O nei: Þvi vier erum ecke hæfeleger af oss sialfum nockud gott ad þeinkia, so sem af oss sialfum til, helldur hvad vier megnum, þad er af Gude; 2 Cor. 3, v. 5. Gud er sa sem verkar i oss bæde Viliann og Mattenn, Phil. 2, 13.

Er þvi eins hattad um vanmaatt Frijvilians hia trwudum; og vantrwudum i andlegum Efnum?

Nei; Þvi Frijviliann er langtum meire hia trwudum en vantrwudum, so ad trwadur madur hefur Sialfræde og Krapta, jafnvel i andlegum efnum, framm yfer þann vantrwada, ad æfa sig i

Gudræknenne, enn soddan krap ta til hins goda, hefur hann ei af Nattwrunne, helldur af Naad-enne.

Um hvad ertu skylldugur Heil. Anda fyrer hans Astgiafer og Velgiorninga?

Umm Elsku, Hlydne og Packlæte.

Hvad er Christeleg Kirkia?

Hun er Sofnudur Guds Barna i þessum Heime, sem hallda vid hreinann lærdom Evangelii, og brwka Sacramenten riettelega.

Hvornen kann Christeleg Kirkia ad kallast Heilog, þar aller Menn eru Synduger i þessu Lijfe?

Heilog kallast hun þess vegna, ad þeir Gudhræddu, sem i henne lifa, eru iklædder Christi Heilag-leika Riettlæte fyrer Trwna, og syna a sier gott og skickanlegt Framferde.

Hvar

Hvar fyrer kallast Christeleg Kirkia almenneleg?

Þviad vor Herra hefur bodeð, ad Evangelium skyllde predikast almennilega fyrer ollum Mønnum; og hanns Christne er og so utbreidd um allan Heimenn.

Hvørnen sundurdeilest Christeleg Kirkia?

Fyrst, er aunnur Stridande hier a Jordunne, aunnur Sigre hrosande a Himnum.

Þar nærst, er aunnur Syneleg i þessum Heime, aunnur Osyneleg.

Vid hvørn helldur su Bardaga, sem strijder hier a Jordunne?

Vid Diøfulenn, Hollded, og Heimenn.

Hvad meinar þu fyrer þa Synelegu Christi Kirckiu?

Sambland af illum mønnum og godum, sem jata sømu Trw,

